*Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist!*



# VERKALÝÐS BLAÐIÐ

*Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)*

20. Tbl. 22. okt. - 5. nóv. 1979 Sími 28962 Verð kr. 200.



# Þolinmæðin að bresta hjá farandverkafólki

**– rætt við tvo fulltrúa þeirra**




Málefni farandverkafólks komust skyndilega á síður dagblaðanna s.l. sumar er það hóf að berjast fyrir bættum kjörum og aðbúnaði í Vestmannaeyjum.

Heldur hljótt hefur verið um þessi mál síðan - þar til á nýafstöðnu þingi Verkamannasambandsins.

Þar mættu tveir talsmenn þessa fólks - sem er talið vera allt að 3000 manns - og fluttu þinginu kröfur sem eru brýnastar til að bæta stöðu þeirra.

Verkalýðsblaðið hitti að máli þessa fulltrúa - þá Björn Gíslason og Þorlák Mortens. Fer hér á eftir álit þeirra félaga á viðbrögðum þingsins gagnvart málefnum farandverkafólks og fleiru sem þessi mál snerta.

__-Hvernig tók þing VMSÍ á málum ykkar?__

-Þingið olli okkur vonbrigðum að sumu leiti. Við höfðum tæpast átt von á því að þurfa að ota málum okkar svo stíft fram. Eiginlega höfðum við gert ráð fyrir því að þessi vettvangur lægi opinn fyrir kröfum farandverkafólks. En greinilega er að marga forystumenn verkalýðsins skortir alveg skilning á eðli þessa máls. Jón Helgason, formaður Einingar, er dæmigerður. Hann sér þessi mál sem staðbundin vandamál sem beri að leysa á hverjum stað fyrir sig en ekki sem málefni allrar verkalýðshreyfingarinnar.

3

## Sigur í grimmilegri baráttu!



6



"Dansi, dansi dúkkan mín, dæmalaust er (stjórnin) fín"
Alþýðuflokkurinn hefur myndað stjórn með stuðningi Sjálfstæðisflokksins.

**Niðurskurður á ríkisspítulunum:**

## Starfsfólk boðar til fundar 3

## Hver er valkostur verkafólks í kosningunum? 8

## Fjársvik við skipakaup

**– tækifæri fyrir Vilmund dómsmálaráðherra!**

4

VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Útgefandi: EIK(m-l). Pósthólf 5186 Reykjavík.
Ábyrgðarmaður: Albert Einarsson

# Framboð eða skil auðra seðla?

STJÓRNARSKIPTIN.

EIK(m-l) hvöttu til þess að kjósendur skiluðu auðu í síðustu kosningum. Við töldum þá að engin valkostur væri til sem berðist utan sem innan þings með hinum vinnandi fjölda og fyrir hann. Það hefur sannast.

EIK(m-l) fögnuðu ekki myndun Ólafsstjórnar. Samtökin töldu stjórnina til þess eins að aðstoða auðvaldið - atvinnurekendur í víðasta skilningi - við að velta verðbólgunni og kreppuþróuninni yfir á alþýðuna. Nokkur atriði félagslegra umbóta, sem flestar ef ekki allar ríkisstjórnir hafa unnið að, breyta þar litlu um. Ólafsstjórninni tókst ekki sem skyldi í augum peningavaldsins. Hún sundraðist - en þó ekki fyrr en vinnandi fólk hafði greitt hana dýru verði, - með 10 - 20% lækkun kaupmáttar, eyðileggingu á sjálfsögðum samnings- og verkfallsrétti og stórauknum skatta og vaxtaálögum, m.a.

EIK(m-l) syrgja ekki þessa stjórn og við vitum að enn fleiri kjósendur en áður gefast upp á blekkingarleik þingflokkanna fjögurra og sannfærast að "vinsamlegt ríkisvald" í auðvaldsskipulagi er ekki til. En við teljum rangt að stjórnin fari frá nú. Bráðabirgðastjórn, bundin samkomulagi um að gera sem næst ekki neitt, er verri en engin.

Kjarasamningar eru lausir svo að segja á kosningadaginn. Undirbúningur til kosninga er of lítill og aðstaða fólks í mesta dreifbýlinu á erfiðasta árstímanum er svo slæm til kjörsóknar að það jaðrar við sviptingu kosningaréttar.

Stjórnin átti að sitja til vors. Framsóknarflokkurinn og Alþýðubandalagið sýna í því máli skömminni til skárri afstöðu en Sjálfstæðisflokkur og Alþýðuflokkurinn.

FRAMBOÐ EÐA SKIL AUÐRA SEÐLA ?

EIK(m-l) móta nú óðum afstöðu sína til komandi kosninga. Sumir telja framboð rétt í samvinnu við aðra um ákveðin hagsmunamál fjöldans. Aðrir eru slíku mótfallnir að þessu sinni, t.d. vegna þess að tími og aðstæður leyfa ekki samningaviðræður við aðra, lýðræðislega og hlutlæga stefnumótun og fjáröflun til kosningabaráttu. Þeir, og þ.á.m. framkvæmdanefnd miðstjórnar, hallast frekar að því að skila auðu.

EIK(m-l) munu taka lýðræðislega ákvörðun um þessi mál - en því miður tekst ekki að koma henni að í þessu tbl. Verkalýðsblaðsins. Hver sem bindandi niðurstaða verður er ljóst, að nú er stuttur en hentugur tími til að tengja saman baráttustefnu, afhjúpun á auðvaldskerfinu og sósíalísk sjónarmið í fjöldastarfi. Kosningafundir og hvers kyns hræringar í stéttabaráttunni á að vera vettvangur kommúnista næstu vikur. Kjaramálin, niðurskurðarstefnan, varnarmálin og samnings- og verkfallsréttur eru nokkur meginbaráttumálin.

15.10. Framkvæmdanefnd miðstjórnar.




## Undirskriftasöfnun til stuðnings baráttunni í Kampútseu

Dagana 17. og 18. nóvemb n.k. verður haldin alþjóðleg ráðstefna til stuðnings baráttu Kampútseumanna gegn innrás og eyðingarstríði Víetnama.

Af því tilefni hefur verið hleypt af stokkunum söfnun undirskrifta um allan heim þar sem ýmsum þekktra einstaklinga og forsvarsmenn samtaka og félaga eru hvattir til að lýsa stuðningi sínum við baráttu Kambútseumanna.

Nú þegar hafa margir undirritað stuðningsyfirlýsinguna (sem hér fylgir í íslenskri þýðingu) víða um heim. Hér heima er undir skriftasöfnun hafin og mun árangur hennar birtur innan tíðar.

Íslenski starfshópurinn er fremur smávaxinn og illa fjáður. Við hvetjum alla þá sem vilja leggja baráttunni lið að hafa samband við hópinn í gegnum Pósthólf 575 121 Reykjavík eða síma 2 65 32 (Þorsteinn Helgason) eða 7 50 33 (Hjálmtýr Heiðdal).

## Kampútseuráðstefna

**Ávarp í tilefni alþjóðlegrar ráðstefnu sem haldin verður til stuðnings við baráttu kampútsísku þjóðarinnar gegn árás Víetnama og fyrir sjálfstæði lands síns.**

Árásarstríðið gegn Alþýðuríkinu Kampútseu stendur enn. Víetnamski herinn heyr árásar- og gjöreyðingarstríð gegn Kampútseu. Tilgangurinn er að velta úr sessi lögmætri stjórn landsins. Með þessu móti brýtur Víetnam gegn fullveldi Kampútseu, gegn sáttmála Sameinuðu þjóðanna og gegn meginreglum óháðra ríkja.

Þjóðir heims geta ekki þolað slíkt ósvífið brot gegn sjálfstæði Kampútseu. Slíkt umburðarlyndi væri ógnun við allar sjálfstæðar þjóðir. Þögn um þessa atburði yrði túlkuð sem samþykki við árásum og innrásum.

Þrátt fyrir mismunandi skoðanir okkar að öðru leyti sameinumst við um að fordæma hrottalegt hernám Víetnams á Kampútseu, stutt af erlendum öflum.

**Við krefjumst þess, að allt víetnamskt herlið hverfi þegar í stað frá Kampútseu. Við krefjumst þess að sjálfstæði og fullveldi landins sé virt. Við krefjumst þess að Kampútseumönnum verði aftur leyft að ráða sínum málum sjálfir.**

**Styðjum þjóð Kampútseu og lögmæta ríkisstjórn hennar í baráttunni gegn árás Víetnams. – Þessari áskorun beinum við til allra félaga og samtaka, sem unna lýðræði. Við beinum henni einnig til alþýðu heims og til ríkisstjórna allra landa sem unna friði, sjálfstæði og réttlæti.**

**Við hvetjum þessa aðila alla til að leggja sitt að mörkum til að tryggja árangur hinnar alþjóðlegu ráðstefnu sem haldin verður á hausti komanda til stuðnings við baráttu kampútsísku þjóðarinnar gegn árás Víetnama og fyrir sjálfstæði lands síns.**

## Verkalýðsblaðið er flutt

Verkalýðsblaðið hefur flutt aðsetur sitt frá Baldursgötu 7 að Frakkastíg 14. Frá og með þriðjudeginum 23.október verður skrifstofa blaðsins opin á þriðjudögum milli kl. 17-19.

Þar verður fulltrúi ritnefndar til viðtals - og eru lesendur hvattir til að hafa samband og koma með ábendingar um blaðið og efnivið í greinar.

Ritnefnd.

## Klaufavilla í BHM-grein

"kennari" gagnrýnir frásögn í VB af útgáfu dreifirits í BHM um verkfallsrétt. Segir hann réttilega að vantað hafi allar upplýsingar um hvar menn gætu nálgast ritið, ef þeir hefðu áhuga á að stuðla að dreifingu þess.

Dreifiritinu var komið á 20 - 25 staði ýmist í pósti eða með því að biðja menn á vinnustöðum að dreifa því. Það breytir engu um að fréttaritari VB í BHM átti að sjálfsögðu að gera öðrum kleyft að taka til hendinni. Skal verða bætt úr þessari vanrækslu.

Fréttaritari VB í BHM

## Eftir „vinstri stjórn"

framh. af opnu.

Þá er gengið að helstu leikreglum borgarastéttarinnar í pólitík. AB er vissulega meiri málsvari félagslegra umbóta, en Sjálfstæðisflokkurinn og flest þau umbótamál ber að styðja. En með því að láta eins og þingstyrkur flokksins ráði meiru um framgang slíkra mála en samtakamáttur alþýðu, gerir flokkurinn meira ógagn en gagn.

Það verður að hafa í huga að AB var ekki aðeins stærsti flokkurinn í síðustu ríkisstjórn. Hann hefur líka í áratugi verið áhrifamesti flokkurinn í verkalýðshreyfingunni. Með hverri "vinstri"stjórn eflist sú stefna að stéttirnar beri "samábyrgð" á atvinnulífinu og verkalýðsbaráttan veikist enn. Það vantar nú þriðjung á að kjör verkafólks séu í samræmi við kröfugerðina fyrir sólstöðusamningana(1oo þús. kr. krafan). Og stefnu verkalýðsforystunnar má líkja við stefnulaust undanhald. Ekki hafa þjóðfélagsvöld verkalýðsins aukist með "vinstri" stjórnum.

## Sósíal demókratisminn

Landsmálastefna AB er stefna sósíaldemókrata. Sögulegt hlutverk krata er að sníða sára kanta og agnúa af auðvaldsþjóðfélaginu, efla efnahagslífið með ríkisafskiptum og með því að stuðla að stéttafriði. Þannig hafa kratar orðið höfuðstoðir undir auðvaldskerfið. Alþýðuflokkurinn er ekki hreinræktaður krataflokkur. Hann er vondur krataflokkur, sem líkist meira gömlum íhaldsflokki.

Hvorki kommúnistar, né annar almenningur syrgja mikið fráfarandi stjórn. Við gleðjumst ekki heldur yfir falli hennar, því það býðst ekki önnur betri eins og ástatt er. Með því að styðja slíka stjórn, erum við fyrst og fremst að gefa arðránskerfi auðvaldsins stuðning. Verkamaður sem kýs AB styður með því óvin sinn, aðeins á annan hátt en kjósandi Sjálfstæðisflokksins. Eftir sem áður er valkosturinn sá einn að efla baráttu fjöldans fyrir öllum sínum hagsmunum og skapa hans eigið stjórnmálaafl.

Þórarinn.



**Litlar úrbætur í málum farandverkafólks:**

# Þolinmæðin að bresta hjá farandverkafólki

-Hvaða kröfur eru á oddinum af ykkar hálfu?

-Það eru kröfur um aðbúnað, fæði og ferðir. Við krefjumst þess að húsnæði það sem farandverkafólki er ætlað að búa í fullnægi betur kröfum um hreinlætisaðstöðu og aðstöðu til einkalífs sem allir hljóta að eiga rétt á.

Varðandi fæðið þá krefjumst við þess að frítt fæði verði hluti af kjörum verkafólksins sem vinnur fjarri heimahögum sínum. Í dag er fæðið geysidýrt og sumstaðar er um hreint rán að ræða. Fæði var t.d. 63% af kaupi fólksins í einni vinnslustöð í Eyjum - en var hækkað án nokkurrar tilkynningar upp í 67%. Dæmi eru um miklu verra ástand þar sem mötuneyti vantar, og fólk verður að kaupa fæði á veitingahúsum. Fríar ferðir þóttu áður sjálfsagðar þegar að farandverkafólk átti í hlut. Við viljum ná þessum rétti aftur.



Björn Gíslason.

-Fengu kröfurnar hljómgrunn á þingi VMSÍ?

-Margir þingfulltrúar lýstu fullum stuðningi við mál okkar og gerðust flutningsmenn tillagna okkar þar sem við vorum gestir þingsins en ekki kjörnir fulltrúar. Einnig var til staðar þó nokkur andstaða. Tillögunum var vísað frá vegna formgalla. Guðmundur J, formaður VMSÍ lagði til í lok þingsins að það lýsti yfir stuðningi við kröfur okkar og að félög á hverjum stað tækju á málum farandverkafólks sem um eigin félagsmenn væri að ræða.

-Á fundi ykkar þ. 14. júlí s.l. lýstu farandverkafólk í Eyjum því yfir að aðgerðum væri lokið af ykkar hálfu í bili og að verkalýðsforystan ætti næsta leik. Teljið þið að það hafi verið rétt ákvörðun af ykkar hálfu?

-Við lögðum á það áherslu í Vestmannaeyjum að við værum að berjast fyrir bættum hag farandverkafólks um allt land. Því töldum við eðlilegt að forysta heildarsamtaka verkalýðsins tæki málið upp sem sitt baráttumál.

-Það má eiginlega segja að í hita baráttunnar hafi staðbundin mál okkar gleymst að hluta. Úrbætur hafa því ekki orðið miklar. En þetta þing VMSÍ er fyrsta tækifærið sem býðst til að koma málinu á framfæri við fulltrúa hinna ýmsu aðildarfélaga.



Þorlákur Morthens.

-Hver er þá staða málsins núna?

-Þingið setti nefnd í málið - en það má teljast furðulegt ef forysta verkalýðshreyfingarinnar ætlar ekki að rísa upp til baráttu gegn þeim gífurlega órétti sem hluti stéttarinnar er beittur. Við höfum gefið þeim frest til að láta til sín taka - og sá frestur stendur enn. Ef þessi forysta getur skapað ríkisstjórnir þá ætti henni ekki að verða skotaskuld úr því að gera eitthvað í okkar málum. Það verður að vera ljóst að fresturinn er að renna út á næstu vikum og þá kemst áreiðanlega á hreyfing neðan frá.

-Þorlákur, þú telur að vinstrimenn hafi ekki sinnt þessum málum sem skyldi.

-Já ég gagnrýni vinstrimenn fyrir það og dreg enga undan. Vitneskjan um þessi mál hefur verið til staðar í marga mánuði en engin hefur haft frumkvæði til að taka þau upp. Og svo er þessi eilífa tilhneiging til að persónugera alla hluti -ef eitthvað á að fjalla um þessi mál þá er hlaupið í Þorlák Mortens og talið gott heita. Af hverju farið þið ekki til Grindavíkur t.d. og kannið þessi mál þar? Það er ekki að furða þótt illa takist að byggja upp fjöldahreyfingar í þessu landi.

-Há

**Niðurskurður á ríkisspítulunum:**

# Starfsfólk boðar til fundar

Nú um nokkurt skeið hefur samstarfshópur unnið að undirbúningi aðgerða gegn fækkun á starfsfólki Ríkisspítalanna. Til að fá upplýsingar um aðgerðirnar hafði blaðið samband við tvo fulltrúa í þessum hóp, þær Helgu Jóhannsdóttur, félagsráðgjafa og Sigríði Kristinsdóttur, sjúkraliða. Fer viðtal við þær hér á eftir:

-Hvernig er þessu samstarfi háttað?

-Sigríður: Að samstarfinu standa ýmis félög starfsfólks sjúkrahúsanna. Þeir hópar sem þegar hafa ákveðið að taka þátt í því eru: Félag íslenskra þroskaþjálfa, Hjúkrunarfélag Íslands, Meinatæknafélag Íslands, Sjúkraliðafélag Íslands, Starfsmannafélagið Sókn og Stéttarfélag íslenskra félagsráðgjafa. Haldnir hafa verið vikulegir fundir þar sem fulltrúar þessarra hópa hafa mætt. Þar hefur m.a. komið fram, að mjög erfitt er að fá upplýsingar um sparnaðarráðagerðir yfirmanna Ríkisspítalanna. Þær eru þó enn á dagskrá hjá þeim og er ætlun okkar að gefa út dreifirit og halda síðan almennan fund, þar sem vakin verður athygli á þessu máli.

-Hvað verður á dagskrá fundarins?

-Helga: Það hefur ekki verið endanlega ákveðið, en það stendur til að hann verði á Hótel Sögu, mánudaginn 5. nóv. n.k. Samþykkt hafa verið drög að dagskrá. Þar sem reynt verður að gefa heildarmynd af ástandinu á Ríkisspítulunum eins og það er í dag og því sem við vitum um fyrirhugaðan niðurskurð. Stjórnendum Ríkisspítalanna hefur verið boðið á fundinn og gefst því væntanlega tækifæri til að gefa þær upplýsingar um þessi mál, sem starfsfólk hefur ekki getað fengið hingað til.

-Hver er tilgangur þessarra aðgerða að ykkar mati?

Sigríður: Megintilgangurinn er að vekja athygli á því, hvaða afleiðingar það mun hafa ef fjárveitingar til heilbrigðismála verða enn skornar niður. Mikið er talað um að spara í ríkisrekstrinum og er það út af fyrir sig góðra gjalda vert, ef það bitnar ekki á þjónustunni við almenning. Ef sömu stefnu verður fylgt við næstu fjárlagagerð og kemur fram í fjárlögum þessa árs, þýðir það óhjákvæmilega stóraukið vinnuálag, lélegri þjónustu og loks að færri sjúklingar munu fá aðgang að sjúkrahúsunum. Eins og allir vita er mjög erfitt að fá sjúkrahúspláss í dag og áralangir biðlistar á sumar deildir. Það er því í meira lagi hæpin stefna að ætla sér að skera niður þessa þjónustu.



Sigríður Kristinsdóttir, sjúkraliði (t.v.) og Helga Jóhannsdóttir, félagsráðgjafi. Mynd: Vbl.

-Helga: Fundurinn er opinn öllum, sem áhuga hafa, enda er niðurskurðurinn mál sem öllum kemur við, bæði starfsfólki sjúkrahúsanna og almenningi. Mér finnst þar mjög mikilvægt að þarna sameinast mismunandi starfsstéttir sjúkrahúsanna til að mótmæla þessum fyrirætlunum. Það kæmi fjárveitingavaldinu að sjálfsögðu best ef hægt væri að fá starfshópanna til að bítast um það sín á milli hverjum ætti helst að fækka.

-Eru uppi einhverjar hugmyndir um frekari aðgerðir að fundinum loknum?

-Sigríður og Helga: Nei það hefur ekkert verið rætt um það í samstarfshópnum. Hins vegar er ljóst, að það er ekki nóg að halda einn fund og láta þar við sitja. Það er nauðsynlegt að við fylgjumst vel með og höldum áfram upplýsingasöfnun, þannig að hægt verði að fylgja þessu máli eftir. Það skiptir t.d. verulegu máli fyrir starfsfólk Ríkisspítalanna hvaða stefnu ný ríkisstjórn mun taka varðandi stöðuheimildir í fjárlögum. Það gengur ekki að stór hluti starfsfólks sé í óheimiluðum stöðum og eigi yfir höfði sér að vera "fækkað" þegar kreppir að í þjóðfélaginu. Raunar ætti enginn, sem búinn er að vinna lengur en 6 mánuði á sjúkrahúsunum að vera í óheimilaðri stöðu.

-Eitthvað að lokum?

-Sigríður og Helga: Bara að við viljum hvetja sem flesta til að mæta á fundinn á Hótel Sögu 5. nóv 5. nóvember.

-in.

# Fjársvik við skipakaup



Vimmi, nú getur þú komið höggi á möppudýrin.

Í síðasta blaði var fjallað lítillega um fjársvik við skipakaup frá Noregi og um fréttaflutning dagblaða í því sambandi. Á þeim hálfa mánuði sem liðin er frá því greinin birtist í Vbl. hafa dagblöðin enn þagað þunnu hljóði um málið. Við höfum reynt að afla nánari upplýsinga, en þær hafa verið torfengnar, svo ekki sé meira sagt.

Hjá embætti saksóknara fengust engar upplýsingar og var því borið við, að saksóknari væri erlendis, en hann einn gæti gefið upplýsingar. Hallvarður Einvarðsson, rannsóknarlögreglustjóri ríkisins, gaf þær upplýsingar, að embætti hans hefðu borist tvö skipakaupamál frá saksóknara. Hallvarður treysti sér ekki til að tímasetja lok rannsóknar, en sagði að áhersla yrði lögð á rannsókn málanna, sem hefðu tafist til þessa. Hallvarður neitaði að gefa upp nöfn viðkomandi skipa og kaupenda, en vísaði á Guðmund Skaftason, löggiltan endurskoðanda og sérstakan ráðunaut sinn í þessum málum. Guðmundur Skaftason sagði tíðindamanni Vbl., að málin væru í rannsókn og að hún myndi ekki taka langan tíma. Guðmundur vildi ekki segja meira um málin. Síðast leitaði Vbl. frétta hjá Garðari Valdimarssyni, skattrannsóknarstjóra, en skv. blaðafregnum fór upphafleg rannsókn skipakaupamálanna fram hjá embætti hans. Garðar var spurður að því hvers vegna rannsóknarlögreglan þyrfti að rannsaka mál sem skattrannsóknarstjóri hefði verið búinn að athuga. Garðar kvað embætti sitt einvörðungu athuga skattalega hlið slíkra mála, önnur brot, svo sem fjársvik, skjalafals, rangar skýrslur o.fl. yrði rannsóknarlögreglan að rannsaka. Garðar taldi þó, að rannsókn rannsóknarlögreglunnar ætti ekki að þurfa að taka langan tíma. Garðar vildi ekki tiltaka nákvæmlega hvenær málin sem rannsóknarlögreglan væri með hefðu verið send frá embætti sínu, en sagði að hann mætti telja í mánuðum. Garðar bætti því við, að mörg skipakaupamálanna væru fyrnd eða væru í þann veginn að fyrnast. Garðar neitaði að gefa upp nöfn kaupenda og skipa og vísaði til þagnarskyldu sinnar. Engar upplýsingar fengust um það hvers vegna rannsóknarlögreglunni hefðu einungis borist tvö mál af þeim 18, sem upplýsingar lægju fyrir um að fjársvik væru í.

Þær litlu upplýsingar, sem okkur hefur tekist að toga út úr nefndum embættismönnum, renna stoðum undir fullyrðingar í síðasta blaði um að skipakaupendur þurfi ekki að hafa áhyggjur af refsingum fyrir glæpi sína. Ekki verður betur séð, en að ríkisvald þeirra beiti sér ötullega fyrir því að leysa málin með því að fyrna þau. Fyrst eru svikin skoðuð vandlega hjá skattrannsóknarstjóra, síðan er þeim þvælt til rannsóknarlögreglunnar með viðkomu hjá Seðlabanka Íslands og saksóknara. Hjá rannsóknarlögreglunni eru málin tafin hæfilega, en síðan lögð áhersla á nýja ítarlega rannsókn þar til glæpurinn gleymist. Hér er kjörið tækifæri fyrir nýja dómsmálaráðherrann, Vilmund Gylfason, til að beita sér í samræmi við gefin fyrirheit. Honum ætti að vera í lófa lagið að rjúfa þagnarhjúpinn. Við þiggjum fúslega allar upplýsingar, frá honum sem öðrum.

Hafa fullyrðingar um að Jan Mayen sé á íslenska landgrunninu við rök að styðjast? Ef svo er - hver eru þau rök? Ef nota á landgrunnsregluna þannig að íslenska landgrunnið nái yfir Jan Mayen, þá verður Ísland að afsala sér Dohrnbanka til Grænlands.




*Höf og neðansjávarhryggir við Ísland. Alþjóðleg eða bresk nöfn eru Irminger Sea, þ.e. Grænlandshaf og Denmark Strait, þ.e. Grænlandssund. Önnur nöfn eins og Íslandshaf, Noregshaf, Íslandsdjúp og nöfn hryggja eru samkvæmt haffræðilegri hefð og kortum Sjómælinga Íslands. (Sv.A.M.)*

## Þetta er mikilvægt mál og lærdómsríkt

Afstaða margra stjórmálamanna og annara er um Jan Mayen málið hafa fjallað, hefur m.a.mótast af hugmyndum að Jan Mayen sé eyja á íslenska landgrunninu.

Í Dagblaðinu fullyrðir Pétur Guðjónsson 10.9 s.l.og oftar, að Jan Mayen sé á íslenska landgrunninu. Í Morgunblaðinu 15.8. segir Gunnar G.Schram,prófessor,að "Í öðru lagi myndi slík útfær-

# Er Jan M
# „Íslensk

**Svend Aage Malmberg**

" Íslendingar voru lengi vel á undan öðrum þjóðum hins vestræna heims, en fylltu flokk 3. heimsins í landhelgismálum. Lokatakmark þess voru 200 mílurnar, efanhagslögsaga svonefnd,sem í raun voru meir en flestir stefndu að í upphafi.

Þar fyrir utan átti að vera sameign mannkyns.

Nú er komið að því að iðnríkin beggja vegna N-Atlandshafs vilji færa sig utar á hafsbotni. Íslendingar láta líklega í þeim efnum og fylla nú flokk vestrænu ríkjanna gegn 3.heiminum, sem átti að fá hlutdeild í sameigninni."

## Kjartan Thors: Þetta mál er pólitísk spurning, ekki náttúrufræðileg

- Það er ekki hægt að segja að Jan Mayen sé á íslenska landgrunninu. Ef svo væri þá ætti Ísland stóran hluta af Atlandshafinu.

- Nú er þessu haldið fram víða að svo sé.

- Ef við ætlum að segja að Jan Mayen sé á íslenska landgrunninu, þá geta grænlendingar haldið því fram með sama rétti að Jan Mayen sé hluti af þeirra landgrunni, því Jan Mayen hryggurinn sem liggur suður frá Jan Mayen er talin vera sneið úr grænlenska landgrunninu.

Ég held að Jan Mayen málið sé pólitísk spurning en ekki jarðfræðileg eða fiskifræðileg og verði leyst út frá pólutískum forsendum en ekki náttúrufræðilegum rökum

Æ.-



Kjartan Thors, jarðfræðingur.

# Allt tal un
# landgrun

- Nú hafa mörg ný viðhorf komið fram frá því að við stóðum í landhelgisstríðum. Nú er deilt um yfirráð yfir hafsvæðum vegna botnauðæfa. Fiskveiðarnar við Jan Mayen eru ekki einar í deiglunni. það er orðið spurning um lögráðarétt yfir eyjunni og þá líka hafsvæðinu í kring

Hin þriðja "vinstri" stjórn hér á landi og sú fjórða með þátttöku "sósíalista" hefur nú hrapað fyrir ætternisstapann. Hvernig verða eftirmæli og hvaða lærdóm drögum við af ferli hennar?

## Ferill stjórnarinnar

Venjulegast gefur fólk ríkisstjórn einkunn með samanburði við fyrri stjórnir og stefnu stjórnar, borna saman við stefnu stjórnarandstöðu o.s.frv. Það er hægt að stjórna auðvaldsþjóðfélagi misvel og skynsamlega útfrá rekstrarlegum sjónarhól, án tillits til hinna misskiptu kjara. Svavar Gestsson hefur gert ýmislegt röggsamlegt gegn spillingu í viðskiptalífi, óstjórn í innflutningsverslun o.fl. Það eru góð og gild verk. Hjörleifur Guttormsson virðist a.m.k. í stefnumótun, vera meiri málssvari íslenskrar iðnaðaruppbyggingar, en Gunnar, Geir og Alþýðuflokkurinn, sem eru hlyntari fjármagnsinnflutningi og verslunarvaldi. Það ber að styðja. En á hitt ber að líta, að hvorki Hjörleifur né Svavar skertu hag einokunarauðvaldsins og okkar ríkisrekna kapitalisma. Þeir bjóða einmitt einokunarauðvaldinu að stjórna "betur en íhaldið" og gera það að ýmsu leyti. Einar Olgeirsson kallar það að "hafa vit fyrir auðvaldinu".

Höfuðvígorð stjórnarinnar var að stöðva verðbólguna og efla atvinnulífið. Fyrri "vinstri" stjórnum tókst að rífa upp efnahagslíf með ríkisaf-



sla (200 mílna efnahagslögsaga. Innsk. Æ.-) skerða landgrunn og hafsbotnaréttindi Íslendinga. Samkvæmt hafréttaruppkastinu, 76.gr. eiga ríki rétt til 260-350 sjómílna hafsbotnslögsögu, ef landgrunnsvæði þeirra í jarðfræðilegum skilningi ná svo langt út. Það gerir íslenska landgrunnsvæðið í áttina til Jan Mayen, þar sem eyjan liggur á íslenska neðansjávarhryggnum, svo sem kunnugt er." Í Þjóðviljanum 15.8. s.l. segir Ragnar Arnalds í viðtali; " ..,auk þess sem Jan Mayen er raunverulega á íslenska landgrunninu."

Svipaðar fullyrðingar hafa komið víðar fram.

Í málum eins og þessum, sem og öðrum málum, er best að hafa það sem sannara reynist. Hagsmunum okkar hér á Íslandi er ekki borgið með því að byggja stefnu okkar á röngum forsendum. Í langvinnu landhelgisstríði var í aðalatriðum byggt á réttum forsendum og við unnum sigur og að auki færðum við mörgum öðrum þjóðum upp í hendurnar dýrmæti reynslu.

Við höfum í VB. fært fram allmiklar heimildir sem sýna fram á sögulegan rétt norðmanna til lögsögu við Jan Mayen. Við höfum leitað upplýsinga varðandi þau atriði sem snerta landgrunn og skifta máli fyrir afstöðuna til þess hvort Ísland eigi þar rétt eða ekki.

## Norskar rannsóknir við Jan Mayen

S.l. sumar gerðu norskir vísindamenn jarðeðlisfræðilegar rannsóknir við Jan Mayen. Niðurstöður þeirra bentu til þess að Jan Mayen hefði sitt eigið landgrunn. Allar rannsóknir af þessu tagi hafa bent til þess sama.



# ...layen á ...ka landgrunninu?“



*Yfirlitsmynd með jafnfjarlægðarlínum og 200 mílna mörkunum út frá löndum við norðanvert Atlantshaf. Myndin er frá 1974 og er m.a. að því leyti úrelt, að bæði er tekið fullt tillit til Jan Mayen og Rockall.(Mynd Sv.A.M.).*

fara eftir "jarðfræðilegum landgrunnum" í þessum málum. Miðlínur eða jafnfjarlægðarlínur, og nú einnig "sanngirnislínur" hafa orðið fyrir valinu. Þannig nær hluti íslensku efnahagslögsögunnar upp á Dohrnbanka sem tvímælalaust tilheyra jarðfræðilegu landgrunni Grænlands. Miðlína var látin ráða á Grænlandssundi á nafni landgrunnskenninga. Landgrunnið er orðið "bókstaflegt"(Þ.e. mælanleg og lagalega skráð á korti. Innsk. Æ.-). Miðlína er heldur ekki eina raunhæfa almenna reglan sem unnt er að fylgja. Það má breyta til út frá henni samkvæmt sanngirnissjónarmiðum. Þannig getum við væntanlega með góðu móti haldið á 200 mílum í átt til Jan Mayen, þótt farið sé yfir miðlínu.

- Alls ekki. Við getum leitað samninga, og það reyndar með góðum rétti, a.m.k. hvað varðar t.d. íslensku loðnuna. Hana höfum við nýtt einir til skamms tíma og eigum einhverskonar "efnahagslegan" rétt, og það mikinn, á henni,með sérstöku tilliti til þess ástands sem ríkir í loðnustofninum og því hversu háðir við erum loðnuveiðunum.

- Jan Mayen málið er því fyrst og fremst pólitískt og lögfræðilegt mál - ekki landfræðilegt eða fiskifræðilegt?

- Deilan stendur ekki um "jarðfræðilegt landgrunn" heldur öllu fremur um "þjóðarrétt" eða "byggðarrétt" viðkomandi staða. Það á líka við um klettadranginn Rockal eins og Jan Mayen, að sendimönnum okkar erlendis er hljóta að gæta hagsmuna okkar gagnvart nágrönnum okkar. Rockall er óbyggður klettur,en Jan Mayen er byggð eyja.

Eins og málum er nú háttað, þ.e. augljós útþenslustefna á hafsbotni út yfir 200 mílurnar, þá geta Íslendingar e.t.v. haslað sér völl enn einu sinni á alþjóðavettvangi og reifað málið út frá hugmyndunum um sameign mannkyns, til að gæta hagsmuna fátækari þjóða og einnig landluktra ríkja þótt rík teljist.

Æ.-

# ...n að Jan Mayen sé á „íslenska ...ninu“ þykir mér út í hött

og botninum undir því.

- Jan Mayen málið er fyrst sinnar tegundar hjá okkur til að valda vandræðum varðandi hin nýja viðhorf. Væntanlega má deila um þjóðréttarmál Jan Mayen. Í mínum augum er hún norsk,og jafnframt eyja en ekki klettur.

Fyrir mér virðist því sanngjarnt að norðmenn fái einhver réttindi þar í hafinu umhverfis. Allt tal hér heima um Jan Mayen sé á "íslenska landgrunninu" þykir mér út í hött. Bæði er það langsótt, og svo hefur ekki verið og það er heldur ekki hægt í stórum heim að Öðru máli þykir mér skipta um það sem þar er fram yfir. Það fellur í hlut Jan Mayen eða norðmanna og svo væntanlega einnig Grænlands, að mínu mati.

- Eru þá kröfur okkar um hlut í fiskveiðum á þessu svæði óraunhæfar?

# Trúið ekki fullyrð - ingum

Fyrrv. stjórnarflokkar reyna nú af öllum mætti að sannfæra fólk um að þeim hafi tekist að varðveita kaupmátt launa. Svavar Gestsson taldi annað fráleitt á almennum borgarafundi í Rvk fyrir skömmu.

Í Þjóðviljanum birtist viðtal við einn starfsmann Kjararannsóknarnefndar um þessi mál. Hann gefur töluupplýsingar um kaupmáttinn en Þjóðviljinn býr til millifyrirsagnir eins og: Kaupmáttur varðveittur, - þegar hagfræðingurinn segir: " Kaupmáttur fyrstu 8 mánuði ársins 1979, miðað við tímakaup verkamanna, var 1,4% hærri en kaupmáttur fyrstu 8 mánuði ársins 1978". Eða með öðrum orðum. Kaupmáttur hækkaði agnarögn um miðbik tímabils Ólafsstjórnar sé miðað við lok tímabils Geirsstjórnar og stjórnarmyndunnartímabil "vinstri" stjórnar.

Mér er spurn:

Hvað segir þetta um allt tímabil Ólafsstjórnar?

Er maðurinn að miða við kaupgjaldsvísitölu sem sífellt breytist?

Hvað með síðustu mánuði ársins 1978 og tímabilið sept. - okt. 1979?

Mikið hlýtur grunnur Alþýðubandalagsins að vera ormétinn úr því að reynt er að rugla fólk í rímunu á þennan hátt? Býst flokkurinn við að missa atkvæði ef hann segir sannleikann?

BSRB segir kaupmátt sinna launa hafa rýrnað um 10-15% frá sumarsamningunum 1978 til 1. sept. 1979. ASÍ segir rýrnun kaupmáttar hafa verið 2-4% 1.mars- 1.sept.1979. Hér er ekki ofreiknað. Eru forystumenn BSRB og ASÍ að skrökva þessu? Nei - fjárhagur alþýðuheimila staðfestir að svo sé ekki. -agé



# ...stri stjórn“

skiptum og fjárfestingarstefnu. Nú tekst þetta miklu síður. Munurinn liggur í lögmálsbundnum sveiflum í auðvaldskerfinu. Tímabilið ´71-´74 var tími kapitalískrar uppsveiflu, en ´78-´79 var kreppuþróun í hagkerfinu. Lausnir AB á verðbólgunni reynast skottulækningar eins og hjá öðrum og vega ekki að djúpstæðum rótum hennar eins og allir mega sjá.

Annað helsta vígorð stjórnarinnar var "samningana í gildi". Samkvæmt útreikningum ASÍ-manna vantar 1o-12% á að algengustu laun séu nú samkvæmt samningum. Í viðbót koma mjög auknar vaxta og skattaálögur á fólk, auknar lántökur erlendis o.fl.

Aðalatriðið er: Höfuðverkefni þessarar stjórnar öðrum fremur er það eins og að segja "Ég kýs mér heldur hálsbólgu en magakveisu", í stað þess að velja hvorugt og reyna að gæta heilsunnar.

## Stjórnarþátttaka sósíalista

Þegar AB forystan á hátíðarstundum flettir upp í stefnuskrá flokksins segir hún það markmið sitt að berjast fyrir umbótum á núverandi þjóðskipulagi og koma á sósíalisma eftir friðsamlegum leiðum. Nú hefur hún setið fjórum sinnum í ríkisstjórn.

Við fyrra verkefnið miðar henni eins og meðal sósíaldemókrataflokki. Við seinna verkefnið miðar henni núll komma ekki neitt. Hún segist byggja á marxisma, en ætlar að koma á sósíalisma með tilstyrk hins borgaralega ríkisvalds. Kenningar marxismans um ríkisvaldið virðist hún hreinlega lesa eins og skrattinn Biblíuna.

Greining marxismans er í stuttu máli þessi; Borgaralegt ríkisvald með her, lögreglu, dómstólum og embættismannakerfi er sniðið til að þjóna auðstéttinni og er tengt henni þúsund þráðum. Þessar stofnanir fara með hið raunverulega pólitíska vald um leið og reynt er að loka pólitísk átök í kjörnum þjóðþingum sem gefa stjórnarforminu útlit lýðræðis en hafa lítið raunverulegt vald.

Þá segir marxisminn að landi verði ekki stjórnað alþýðu til hagsbóta með borgaralegu ríkisvaldi, sama hver vermir ráðherrastólana. "Vinstri"stjórnir bregðast flestum loforðum, ekki bara vegna ómennsku og undirferli heldur af því að þær hafa afar takmarkað vald.

En þegar AB-foringjarnir gefa í skyn að þingið sé þungamiðja valdsins í þjóðfélaginu og þar skuli meginstríðið háð er það fals.

frh. á bls 2



Myndin sýnir tvo þeirra andófsmanna úr röðum Sama,sem fóru í hungurverkfall til stuðnings kröfum sínum um friðun Altasvæðisins.

### Samar í N-Noregi vinna frækilegan sigur

# Sigur í grimmilegri baráttu!

### við norska ríkisvaldið, sem ætlaði að ræna þá tilverugrundvelli þeirra

Staðurinn er Alta í Finnmörk í N-Noregi. Ríkisstjórn "Verkamannaflokksins" ákvað að byggja skuli stíflumannvirki í Alta. Að baki stíflunnar legðust stór svæði undir vatn. Þessi svæði eru mikilvæg beitarsvæði fyrir hreindýr sama. Með samþykkt sinni var gerð enn ein atlaga að tilverugrundvelli Samísku þjóðarinnar í N-Noregi.

## Mannvirkjagerð stöðvuð

S.l. vor þegar hefjast átti handa um byggingu stíflunnar var að frumkvæði Sama efnt til mótmælaaðgerða. Vegagerð að stíflusvæðinu var stöðv- ð- uð með því að sest var framan við vinnuvélarnar. Íallt sumar hefur fjölmenni búið í tjaldbúðum nærri staðnum og verið til taks. Oft hefur komið til átaka milli verndunarmanna og liðs sem egnt hefur verið gegn þeim. Skotið var riffilskotum að tjaldbúðunum. Lögregla var send á vettvang. Vinna við vegarlagninguna lá alveg niðri.

Nú þegar vetur er að ganga í garð og snjór og frost herja á verndunermenn ætluðu forsprakkar virkjunarstefnunnar að binda skjótan enda á setuna við vegarendann. Öllum vegum að svæðinu var lokað og fékk fólk ekki að hafa með sér matarbita hvað þá annað, t.d. keðjur til að hlekkja sig við jörðina, enda þótt það færi gangandi. Fréttamenn fjöðmiðla fengu að fara inn á svæðið í eina klst. á dag. Að skipun landsyfirvalda hafði lögreglan tekið sér vald til að takmarka umferð, án þess að um það væri almennt tilkynnt eða af hvaða ástæðum.

## Hungurverkfall í Osló

Þegar útséð var með að aðgerðirnar í Alta náðu ekki að hrófla við áformum ríkisvaldsins og að ætlun yfirvalda var að beita öllum ráðum til að hindra fólk í að dveljast í Alta, en stór hópur var undir það búið að hafa þar vetursetu, þá var ákveðið að slá upp tjöldum á Eiðsvallartorgi í Osló (við þinghúsið) og hefja hungurverkfall. Fulltrúar Sama lýstu því yfir að hungurverkfall þeirra myndi vera þar til yfir lyki. Annað hvort gæfi stjórnin eftir og drægi aftur allar ráðagerðir um stíflugerð í Alta eða þeir sveltu sig í hel á tröppum þinghússins.

Eftir að hungurverkfallið hafði varið dögum saman og samúð almennings með Sömum hafði vaxið verulega bjuggust menn við því að ríkisstjórnin léti undan. Nordli forsetisráðherra hafði þá beðið afhroð í kosningum og var að endurskipuleggja ríkisstjórn sína

Fyrsta verk hins nýja dómsmálaráðherra og raunar ríkisstjórnarinnar var að skipa lögreglu að fjarlægja Samana sem í hungurverkfallinu voru frá þinghúsinu. Þetta gerðist fimmtudaginn 11. okt. Nokkur mannfjöldi var alla jafnan samankomin á mótmælastöðu við þinghúsið. Svo var líka á fimmtudaginn 11.10. A.m.k. 12 voru handteknir ásamt Sömunum og færðir í fangelsi. Tekin var skýrsla og "föngunum" sleppt og hurfu þeir þá beint til þinghússins á ný og héldu áfram . Lögreglan reif niður tjöld Samanna á Eiðsvallartorgi. Stundu síðar voru ný tjöld komin á torgið.

Stuðningur við aðgerðir Samanna óx jafnt og þétt. Fjöldi verkalýðsfélaga og annarra hafði samþykkt einróma stuðning. Fólk stóð í biðröðum til að skrifa nafn sitt til stuðnings aðgerðunum.

## Sigur — en baráttan heldur áfram

Að lokum varð ríkisstjórnin að gefa eftir. Ákveðið var að fresta framkvæmdum í 6 mánuði. Nota á tímann til að rannsaka hvaða áhrif stíflugerðin hefði á líf og tilverugrundvöll Samísku þjóðarinnar. (Það hefur þá líklega ekki verið gert áður en ákveðið var að fara út í framkvæmdir?)

Aðgerðir Samanna og stuðningsfólks þeirra urðu til þess að beygja ríkisstjórnina, eftir að hún hafði notað allt annað en herinn gegn þeim.

Það varð sigur í þessari lotu - barátta Sama heldur áfram. Land þeirra er eftisótt af auðherrum. Þeir skirrast ekki við að beita fasískum aðferðum til að ná markmiðum sínum - það sýnir sig í Alta.

## Þetta er mikilvægt mál og lærdómsríkt

Þetta er mikilvægt mál til að læra af.

Því er þetta mál reifað hér svona ítarlega? Af því að í því kemur glöggt fram að það er hægt að sigra, enda þótt óvinurinn virðist margfalt sterkari.

Samar eru lítil þjóð, og norsk auðstétt hefur farið ránshendi yfir land þeirra. Í þessu máli var norsku ríkisvaldi og borgarastétt ekki tekið með vettlingatökum. Tökin sem dugðu til sigurs voru þrautseigja og barátta sem aflaði víðtæks stuðnings um allt landið.

Við getum lært af þessu og munum sjálfsagt þurfa að beita svipuðum tökum þegar leggja á land okkar undir erlenda stóriðju eða vígahreiður. Nótt stóriðjudrauma þeirra sem reka erindi auðvalds er ekki öll hér á landi.

Æ.-

## Jan Myrdal í Kampútseu

Nýlega fór sænski rithöfundurinn Jan Myrdal til Kampútseu í boði stjórnar Pol Pot Myrdal er fyrsti erlendi fréttamaðurinn sem stjórnin býður til landsins eftir innrás Víetnama. Hann fór til landsins ýmist ríðandi á fíl eða fótgangandi með mikilli leynd þar sem viðbúið var að Víetnamar reyndu að hindra för hans ef af henni fréttist fyrirfram. Jan Myrdal fór þessa för á vegum sænska sjónvarpsins og Svenska Dagbladet og gerði hann kvikmynd um förina auk þess sem hann tók fjölda ljósmynda. Að sögn Myrdal þá ræður stjórn Pol Pots fjórðung landsins algjörlega. Heimild: Gnistan.



Jan Myrdal.

## Bandaríkin: CIA aðstoðar útfasista.

Leyniþjónustur fjögurra erlendra ríkja, sem eru bandamenn stjórnarinnar í Washington, hafa fengið frjálsar hendur til að njósna um andstæðinga sína í Bandaríkjunum. Þær hafa einnig ofsótt þá og jafnvel myrt, með fullum vilja stjórnvalda þar í landi. Þetta kemur fram í nýlegri skýrslu, sem unnin er á vegum Öldungadeildarinnar. Leyniþjónustur þær,sem um er að ræða, eru leyniþjónustur Íran (meðan keisarinn var við völd) Taiwan, Chile og Filippseyja. Þær höfðu starfsleyfi frá CIA og stjórnvöld hindruðu borgaraleg yfirvöld við rannsókn á glæpum þeirra.

Í skýrslunni segir að umfangsmest hafi verið starfssemi leyniþjónustu Íranskeisara og Taiwan.

SAVAK (leynilögregla Íranskeisara) njósnaði kerfisbundið um 30.000 íranska námsmenn í Bandaríkjunum, og stóð fyrir morðtilraunum við leiðtoga stúdenta, sem börðust gegn keisaranum.

Í réttarhöldum er lauk nýlega yfir morðingjum Orlando Letelier, chileönskum útlaga og fyrrum stuðningsmanni Allende, komu fram upplýsingar er bentu til tengsla CIA við útsenda leigumorðingja frá herforingjastjóninni í Chile.

(The Call, nr. 32, ´79)

## Kampútsea: 11 sovéskir ráðgjafar drepnir.

200 sovéskir ráðgjafar tóku þátt í hátíðahöldum í tilefni þjóðhátíðardags Vietnam, 2. september í Ankor Vat í Kampútseu. Skæruliðar samfögnuðu þeim með skyndiárás. 5 Sovétmenn létust samstundis og 13 særðust. 7 Vietnamar létust og 15 særðust, segir í fréttum frá fréttastofu Pol-Pot-stjórnarinnar. Daginn eftir komu 30 sovéskir ráðgjafar til Ankor Vat undir vernd Vietnamskrar hersveitar. Þeir urðu einnig fyrir árás skæruliða og létust 6 þeirra, en 10 særðust.

Í fréttum frá Kampútseu segir að fyrstu 10 daga september mánaðar hafi 105 Vietnamar fallið í bardögum við skæruliða í 2 héröðum landsins, Stung Treng og Sandan, en í Battambang voru 700 óvinahermenn drepnir fyrstu tvær vikur september. Fréttir herma einnig að skæruliðar hafi unnið mikla sigra í öðrum héröðum landsins, og að tilraunir vietnama til að eyða skæruliðum hafi mistekista algerlega.

(Gnistan, nr.45 , ´79)

## Svíþjóð: Endurskoðunarsinnar styrktir af Sovét.

VPK.,Vensterpartiet kommunisterna, sem er flokkur á bandi Sovét, fær árlega stórar fjárhæðir í styrk frá valdamönnum í Kreml. Prentsmiðja í eigu flokksins fær pantanir árlega frá Sovét sem nema að upphæð um fjórum sinnum meira en félagsgjöld flokksmeðlima. Flokkurinn fær aldrei beinan fjárstuðning, heldur er hann falinn í gegnum greiðslur til prentsmiðja, ókeypis utanlandsferðir og innflutningsfyrirtæki, sem velta milljónum sænskra króna. Annar flokkur, APK.,sem er 100% trúr Moskvu fær sams konar stuðning. Í nýafstöðnum kosningum fékk flokkurinn"að láni" söng og dansflokk frá Sovét til að skemmta á kosningafundum. Það voru blaðamenn Gnistan, málgagns Sveriges kommunistiske parti, sem flestu ofan af þessu og vakti málið mikla athygli í Svíþjóð.

TIL UMRÆÐU

# Hver er okkar innri maður?

Sumir halda því fram, að innst inni sé maðurinn grimmur, árásagjarn, miskunarlaus og jafnvel geðveikur,að á stríði, blindafylleríi eða reiðikasti komi okkar innri maður fyrst fram í dagljósið Fullyrðingar um að æðsta ósk konunnar sé að láta berja sig og nauðga sér af svipuðum toga spunnar. Ég hef jafnvel heyrt fólk, sem aðhyllist sósíalisma og jafnvel kommúnista, halda þvílíku og öðru eins fram.

Hér er öllu snúið á haus. Þvættingur sem þessi er baneitraður og eftir því afturhaldssamur. Hann á upptök sín hjá þeim, sem ekki sjá millimetra út fyrir rotið auðvaldskerfið, sem við búum við í dag. Svona boðskapur er meðal til að brjóta niður traust á okkur sjálfum og meðbræðrum okkar. Þá er um leið grafið undan von okkar og vilja til að breyta aðsræðum þeim, sem gera líf meirihluta mannkynsinsí dag að hálfgerðu helvíti.

Ef þessi rógur um mannveskjuna er sannur, þá er hvorki sósalismi né kommúnismi framkvæmanlegur. Grundvöllur allrar félagshyggju er sá, að maðurinn er félagsvera, sem hjálpar sjálfum sér fyrst og fremst með því að hjálpa öðrum.

Mannfræðingar álíta, að maðurinn hafi lengi verið félagsvera. Allt frá því að hann líktist meir núlifandi öpum en mönnum hafi hann lifað í mismunandi stórum samfélögum. Má þá telja næst fullvíst, að á okkur séu sterkar, ósjálfráðar hvatir,er stuðla sð því að styrkja tengsl og samhjálp einstaklinganna. Hjá félagsdýrum velur nátturuval úr þá eiginleika einstaklinganna er styrkja samfélagið sem heild. Hjá félagsdýrum er samkeppni milli hópa meira áberandi en samkeppni milli einstaklinga. Samfélögin þar sem þegnarnir ná því að vinna vel og skipulega saman verða ofan á í samkeppni náttúrunnar.

Ást og umhyggja fyrir náunganum eru að margra dómi meðal frumhvata okkar, ekki síður en matarlyst og kynhvöt. Fáum við ekki fullnægt þessum hvötum, líður okkur illa, við líðum félagslegt hungur.

Ef dýr eru sett í mjög framalegt umhverfi,eða illa búið að þeim á einhvern hátt geta þau sýnt óeðlileg viðbrögð. Til dæmis ráðast friðsamar rottur hver á aðra og éta hver aðra, ef þær eru settar margar saman á of þröngt búr.

Félagslegar pyntingar á föngum, svo sem langvarandi einangrun eða pyntingar á ástvinum í þeirra augsýn, geta gengið þeim nær en þumalskrúfur, brunasár og beinbrot.

Í þjóðfélaginu okkar hallar stöðugt undan fæti. Þrátt fyrir það að hver vinnandi hönd afkasti stöðugt meiru með bættri tækni, styttist vinnutíminn ekki hjá"vinnudýrunum" meirihluta þjóðarinnar. Áróður einstaklingshyggjunar er eins og óstöðvandi hagél. Aðsókn að geðsjúkrahúsum vex og þyrftu þó fleiri að leita þar aðstoðar. Ofbeldi virðist fara vaxtandi. Ef við lítum til stósa bróður í vestri, sem er kominn lengra á sömu braut, sjáum við hvert stefnir.

Það ætti engan að undra, þótt afleitar aðsæður kalli fram vond og sjúkleg viðbrögð hjá fólki. Við erum ekki úr stáli, heldur holdi og blóði. Það er hægt að ofgera fólki, einkum ef það er gert frá barnæsku. Mér finnst ég alltaf sjá betur og betur, að innsti kjarninn í okkur er góður og harður. Þeir sem ekki skynja það held ég að hljóti að vera blindir og sljóir.

Við mættum gera meira af því að ganga á móti strumnum og ryðja úr vegi hindrunum fyrir því að hið góða í okkur sjálfum fái notið sín. Það þýðir meðal annas, að við verðum að segja auðvaldskerfinu stríð á hendur því það er ekki lengur í neinu samræmi við okkar innri mann. Við þurfum að þjarma að því frá öllum hliðum og það nýja, sem við byggjum upp í staðinn, þarf að vera sköpunarverk okkar allra.

Valdi Mar

# Höldum áfram í kollhnís

– svar til Öldu

Alda skrifar lesendabréf í síðasta tbl., sem tekur upp nokkur atriði úr grein minni í blaðinu þar á undan. Það er fínt að umræðan er komin af stað á blaðinu. Sumt hefur Alda misskilið í grein minni, og það er þá mín sök, sem ég vil bæta fyrir- um annað erum við ósammála og þurfum að ræða nánar.

VANMAT Á STUÐNINGSFÓLKI ?

Ég vanmet á engan hátt stuðningsfólk, þegar ég nota hörð orð um starfshætti okka í samfylkingum. Þvert á móti – það vorum við sem vanmátum stuðningsfólkið með starfsháttum okkar þar. Við bjuggum til "stefnugrundvellina", við hvöttum ekki til deilna eða umræðna, við gáfum þessu stuðningsfólki enga möguleika til að hafa áhrif á neitt nema praktísk störf og borðagerð. Misminnir mig?

SAMFYLKING MEÐ HEIMDALLI ?

Þér finnst stefna mín ("í ár litum við svo á að það skipti mestu máli að ná samstöðu við sem allra flest þeirra sem voru okkur sammála um aðalinntak 21. ágúst, nefnilega baráttan gegn sovésku hernámi í Tékkóslóvakíu") leiða til þeirrar ósvinnu, að við getum samfylkt með Heimdalli. Það er rétt túlkun. Ég er tilbúin til að samfylkja með Heimdalli og fólki af þeirri gerð um ofangreinda kröfu. Staðan bauð hins vegar ekki upp á það í ár. Kannski seinna ? Hvort finnst okkur annars mikilvægara 21. ágúst –málefnið sem um er að tefla – eða flokkspólitískar andstæður milli EIK(m-l) og annara stjórnmálasamtaka ?

ÞRÓUN EINSTAKLINGSBUNDIN ?

Umfjöllun mín um "einstaklingsbundna þróun" var yfirboðsleg og órökstudd. Þökk sé Öldu að benda á það. Það sem ég á við er þetta : Samtökin hafa ennþá ekki komið sér upp neinni ákveðinni stefnu í þessu uppgjöri og leiðréttingum. Úrbæturnar eru því ennþá bundnar við þá einstaklinga, sem starfa hér og þar. Allir reyna auðvitað sitt besta. En án heildarstefnu hlýtur félögum að ganga misvel að leiðrétta sig. Þar hljóta aðstæður að ráða, svo sem eðli verkefna, reynsla hinna einstöku félaga og þekking, svo og það hvert þeirra eigið persónulega álit var og er á þessari gömlu röngu stefnu.

HVER ERU AÐALATRIÐIN ?

Alda telur ekki upp aðalatriði greinar minnar né ræðir hún málið í greinarlok á þann hátt sem ég held að skipti máli. Það gerði ég kannski ekki nógu vel heldur í minni grein. Alda hvetur okkur til að lesa Baráttuleið alþýðunnar. Gott og vel. Það er ýmislegt gott í henni, annað verra. En læknar það meinsemdir okkar að lesa fræðin og lexíunar ? Það held ég að dugi skammt. Það sem við þurfum að gera er þrotlaust starf. Ekki að kaffæra okkur í innri störfum, fundarsetum, umræðum og naflaskoðun, heldur starfa meðal fólks. Hvað þýðir að sitja einangruð úti í horni og ræða eðli og eigindir einangrunarstefnunnar? Við eigum að rífa okkur upp úr þessu feni, fara til og meðal fólks, kanna aðstæður þess og hagi, óskir og hugmyndir. Við eigum að rannsaka þjóðfélag okkar, gerð þess og hreyfiöfl í smáatriðum. Við eigum að setja okkur inn í allt það sem alþýðunni kemur við, hvort sem heitir hávaxtastefna, kjarasamningar, verðlagsmál, félagsmálafrumvörp eða eitthvað annað. Við eigum að vera þar sem fólk er, á fundum, á vinnustöðum, í aðgerðum, inni á heimilunum, og segja meiningu okkar. Skítt með það, þótt sú meining stökkvi ekki algóð og fullkomin út úr hausum okkar. það er skárra að gera mörg mistök meðal fólks, en að gera alltaf þau sömu mistök að vera í felum. Og hvernig við prófum við réttmæti okkar og stefnu, ef ekki einmitt með því að láta hana berjast við aðrar stefnur ? Til að lækna uppdráttarsýki okkar þörnumst við skamma og gagnrýni fólks, – á nákvæmlega sama mæli og við þörfnumst stuðnings við allt það rétta og góða sem við höfum fram að færa.

Er ekki svo ?

Rúnar.

# Landsþingið þarf að skera upp herör gegn villunum!

Landsþing Eik (m-l) er fyrir dyrum, eins og fram kom í leiðara 19. tbl. Ljóst er að þetta þing verður að endurmeta starf og stefnu Eik (m-l) undanfarið ár og reyna að draga einhverjar niðurstöður af þeirri gagnrýni, sem samtökin hafa fengið, bæði innan og utan Eik (m-l).

NOKKUR GAGNRÝNISATRIÐI.

Það sem fólk hefur gagnrýnt samtökin fyrir er t.d. eftirfarandi: Þið takið ekki upp þau mál, sem fólki þykir mikilvægust, heldur það sem okkur þykir rétt. Þið eruð með sleggjudóma um menn og málefni, hafið fordæmt fólk fyrir litlar sakir og takið lítið tillit til skoðanna annara. Þið eruð einsýnir og látið vera að skoða allar hliðar málanna. Þið eruð málpípur kínverja. Þið vinnið helst ekki með öðrum en nánum jábræðrum ykkar og stofnið útibú frá Eik (m-l) þrjá til fjóra tyllidaga á ári.

SAMTÖKIN HAFA EINANGRAST.

Yfirlýsingar sem þessar hafa komið frá mörgum, bæði andstæðingum og samherjum og þetta fólk hefur mikið til síns máls. Ýmsir andstæðingar Eik (m-l) t.d. úr röðum stútenta, KFÍ og víðar hafa sagt Samtökin reka grófa einangrunarstefnu. Við tókum ekki mark á þessum röddum. Þessir kallar voru jú endurskoðunarsinnar en engir kommar og við tókum ekki mark á þeim. En því miður. Þeir höfðu rétt fyrir sér að mörgu leyti. Samtökin hafa einangrast og það er fyrst og fremst okkar sök, en ekki andstæðinganna.

HELSTU EINKENNIN.

Helstu einkennin á villum samtakanna hafa m.a. verið þröng pólitík, sem höfðað hefur til fárra, fastheldni á kreddur í ýmsum málum og jafnvel trúlega lotning, fyrir öllu sem leiðtogar kommúnistahreyfingarinnar hafa látið frá sér fara, of lítil umræða og skoðanaskipti í samtökunum og umhverfis þau, yfirlæti gagnvart andstæðingum, of lítið mark tekið á gagnrýni, stefnumótun án verulegra umræðna og rannsókna o. fl.

AF HVERJU ER ÞETTA SPROTTIÐ?

Nú er það víst, að þessar meinsemdir eru ekki sprottnar af illmennsku, geðstirfni eða öður álíka, heldur eru þetta afleiðingar af rangri pólitískri afstöðu. Ég held, að þessir gallar okkar séu ekki nýir af nálinni, heldur villum sem hafa einkennt hina kommúnísku hreyfingu í ríkum mæli seinustu áratugi. Ég held, að gegn þessu dugi ekki minni háttar lagfæring, það er t.d. ekki nóg að hella sér útí starf á allra handa fjöldasamtökum. Við verðum að vita hversvegna okkur hefur orðið svona á í messunni.

Mitt mat er að við höfum í veigamiklum atriðum haft ranga afstöðu til eins af grundvallarþáttum á þeim fræðum sem við kennum okkur við, marx-lenínismanum. Sá þáttur er díalektísk efnishyggja. Hún segir okkur að öll fyrirbæri þróist áfram vegna innri andstæðna og leggur áherslu á að barátta andstæðna stefna innan sérhverra pólitískra samtaka er nauðsynleg framþróun þeirra. Hún segir okkur að rannsóknir og greining á tilteknum aðstæðum og reynsla af starfi segi til um réttmæti hugmynda og skoðana. Hún varar okkur við yfirborðsmennsku og því að sjá hlutina sem annahvort svarta eða hvíta. Hún segir okkur að skoða hlutina á samhengi en ekki að slíta þá hvern frá öðrum.

HEFUR ÞETTA EKKI ALLTAF VERIÐ SAGT?

En þá kann einhver að spyrja, er þetta ekki það sem eikaranir hafa sagt? Jú, þetta höfum við sagt, a.m.k. að hluta, en reynslan segir okkur að við höfum ekki unnið á þennan hátt.

Ég held að þessar villur séu býsna grónar inn í Eik (m-l) og verði ekki leiðréttar í einu vetfangi.

Þetta eru atriði sem við tökum í arf frá starfsemi kommúnista á liðnum áratugum, auk þess sem við sjáum að þetta er meira og minna ríkjandi í öllum öðrum pólískum hreyfingum og flokkum á Íslandi á dag.

HVAÐ ÞURFUM VIÐ AÐ GERA?

En það sem við þurfum að gera núna er að byrja strax að taka upp breytta starfshætti, Það kallar á auknar rannsóknir, mat á reynslu okkar og annarra, þurrka út hroka og yfirlæti gagnvart andstæðingum og taka mark á allri gagnrýni. Það kallar á að við vinnum meðvitað að því að fá fram andstæðar skoðanir á hlutunum innan sem utan samtakanna. Það kallar á endurmat á ýmsu í starfi okkar og stefnu hingað til og uppgjöri við það sem rangt hefur verið gert. Það kallar á stóraukið starf meðal fólks,í samtökum þess og bætt Verkalýðsblað sem þarf að verða virkur þátttakandi í þeim baráttumálum sem mest eru brennandi á hverjum tíma.

Ragnar.

VERKALÝÐSBLAÐIÐ

1 árs áskrift: kr. 3000
1/2 árs áskr.: - 1750
Til útlands : - 5500
Stuðningsáskr: - 5000

Áskrift greiðist á gíró 12200-9



# Hver er valkostur verkafólks í kosningunum?

Ovænlega horfir um valkosti launamanna í komandi kosningum 2. og 3. des. n.k Deilur virðast magnaðar á ýmsum sviðum milli þingflokkanna. Meðal annars er deilt um leiðir í launamálum. En lítum lauslega á þennan ágreining eins og hann hefur birst í fjölmiðlum.

Sjálfstæðisflokkurinn boðar grímulausa kreppupólitík í anda Margrétar Tatcher og tekur undir áróður Vinnuveitendasambandsins um að atvinnuvegirnir þoli engar grunnkaups hækkanir. Það þýðir, að ca. 15% kjaraskerðingu síðustu missera á ekki að bæta. Sama gildir um kjararýrnun, sem Þjóðhagsstofnunin hefur spáð á næstu mánuðum. Þá vilja VSÍ-menn, sem eru flestir leiðandi menn innan Sjálfstæðisflokksins, auka áhrif viðskiptakjaravísitölu á launaákvarðanir, en þessi vísitala er verkafólki ávallt í óhag, hvað svo sem fiskverð hækkar í Bandaríkjunum.

Framsóknarflokkurinn hefur lýst því yfir, að ekki komi til greina að hækka kaup næsta árið, um það verði að takast fullkomin samvinna milli VSÍ og ASÍ. Flokkurinn boðar svokallaða norska leið í efnahagsmálum, en það er verðbólgulausn á kostnað verkafólks með lögbundnum sjálfvirkum kjaraskerðingum.

Alþýðuflokkurinn klifar enn á kjarasáttmála og tekur undir stefnu Framsóknarflokksins.

Alþýðubandalagið samþykkir viðskiptakjaravísitölu sem m.a. skerti laun um liðlega 4% 1. sept. s.l. Einar Karl Haraldsson, ritstjóri Þjóðviljans, hefur reyndar lýst því yfir, að ekki sé unnt að lækka verðbólgu niður fyrir 40% nema með kjaraskerðingu. Alb., ásamt Framsóknarflokki og Alþýðuflokki seitti gerðardóm á sjómenn að vilja VSÍ og skv. pöntun ASÍ. Þar var tillt fordæmi gefið um afskipti ríkisins af kjarasamningum með lagaboði. Á stjórnartíma Alb. lækkaði kaupmáttur launa almennt um ca. 15%. Gamla kosingakrafa Alb. um 100.000 kr. lágmarksmánaðarlaun jafngildir nú ca. 300.000 kr., en lægstu laun eru 220.695 kr. í dag.

Það er ekki að sjá, að eðlismunur sé á stefnu þingflokkanna í kjaramálum. Allir vilja þeir kauprán í einhverri mynd til lausnar verðbólguvandanum. Enginn talar um að sækja verðbólgu vandans í vasa þeirra sem grætt hafa á honum. Er það verkafólk sem hefur sankað að sér eignum undanfarin ár?

Hvað finnst lesendum um valkosti þeirra sem ekki vilja kjósa yfir sig kjaraskerðingu í desemberkosningunum? Eigum við að skila auðu eða hvað?

## Alþjóðagjaldeyris – sjóðurinn

Þingi alþjóðagjaldeyrissjóðsins er nýlokið. Fátt markvert mun hafa gerst á þinginu, enda munu engar mikilvægar ákvarðandi teknar á slíkum samkomum. Athygli vekur hinsvegar, að þingið er haldið í Júgóslavíu og að það sótti, eftir því sem næst verður komist, Svavar Gestsson, þáverandi viðskiptaráðherra. Það má ef til vill búast við afhjúpunum frá honum um raunverulegan tilgang sjóðsins. Það væri góð byrjun hjá Svavari að birta persónulegu minnispunktana um fund fulltrúa sjóðsins með honum hér á landi í fyrra, sem Elías Davíðsson, kerfisfræðingur hefur ítrekað beðið um afrit af.

Samtök herstöðvaandstæðinga:

# Landsráðstefna framundan

3. og 4. nóv n.k. ráðgera Samtök herstöðvaandstæðinga að halda landsráðstefnu. Verður ráðstefnan í Félagsstofnun stúdenta í Reykjavík.

## Hver er árangur starfsins s. l. ár?

Á s.l. ári hafa Samtök herstöðvaandstæðinga (SHA) staðið fyrir allmörgum aðgerðum, sem boðið hafa upp á fjöldaþátttöku. Í þeim efnum hafa SHA staðið við samþykktir síðustu landsráðstefnu. Aðgerðir SHA hafa hins vegar ekki náð að virkja fjölda herstöðvaandstæðinga til samfelldra starfa - starfið hefur bundist við einstakar aðgerðir.

Síðasta landsráðstefna samþykkti einnig að SHA skuli efla starf hverfahópa og deilda. Þessu hefur ekki verið sinnt. Þá stóð til að SHA efndi til fundahalda í skólum og víðar um hermálið. Þessu hefur heldur ekki verið sinnt.

Það er ekki nóg að samþykkja starfsáætlun þegar ekki er unnið að framkvæmt hennar. Það er engin afsökun til fyrir því að samþykktum er ekki framfylgt. Hins vegar eru til skýringar á þessu. Þær komu m.a. fram þegar á síðustu landsráðstefnu. Þar var því haldið fram að starfsáætlunin væri óraunhæf vegna þess að skipulag SHA gæti ekki staðið undir slíku starfi. Til þess að vinna svo umfangsmikið starf og starfsáætlunin gerði ráð fyrir þarf félagsskap, samtök, sem ráða yfir skipulagi og lýðræði, en ekki lausa hreyfingu sem stýrt er af óbundinni miðnefnd. Það er t.d. til marks um lýðræðið í SHA að núverandi miðnefnd er kosin á landsráðstefnu sem haldin var í Reykjavík og kostaði kr.3ooo að komast inn á. Þeir herstöðvaandstæðingar sem ekki komust á ráðstefnuna vegna t.d. peningaleysis (það er til í dæminu, t.d.skólaæska) eða búsetu (búa fjarri Reykjavík) höfðu ekki nein áhrif á það hverjir voru kosnir til forystu í miðnefnd. Gaman væri að athuga starfsferil núverandi miðnefndarmanna í SHA - hafa allir lagt af mörkum starf í miðnefnd?

## Heimavarnarliðið

Það er mikið afrek að SHA skyldi gefa út plötuna "Eitt verð ég að segja þér"



Með þessari aðgerð hafa SHA náð lengra en með mörgum öðrum aðgerðum. Með plötuútgáfunni fara SHA inn á brautir sem eru mjög vænlegar til þess að koma málstað herstöðvaandstæðinga fram meðal mikils fjölda fólks.

## SHA – Hvert stefnir?

Landsráðstefna SHA nú í nóvember verður að beita sér að tveim megin viðfangsefnum. Annarsvegar að því að byggja upp samtökin sem liðsmannasamtök þar sem liðsmenn velja sér stjórn. Hinsvegar með því að marka sjálfstæða stefnu, sem tekur mið af ástandinu hér heima og alþjóðlega.

SHA hefur oftlega verið borið á brýn að vera notuð af Alþýðubandalaginu í t.d. kosningabaráttu. Enda þótt moggaskrif um þetta séu orðum aukin þá eiga þau við rök að styðjast. Það er ekkert launungamál að forsprakkar AB hafa unnið að því að samla fólki inn í miðnefnd eftir því af hvaða pólitísku sauðahúsi það er. Þetta eru röng og ólýðræðisleg vinnubrögð. SHA verða að vera sjálfstæð samtök, sem vinna sitt starf óháð því hvað AB vill eða vill ekki og tilbúin til að gagnrýna AB og aðra ef ástæða er til þess. Stuðningur stjórnmálaflokka við SHA er góður, en hann á ekki að vera bundinn skilyrðum.

Æ.-

# Fjárlagafrumvarpið

NIÐURSKURÐARSTEFNUNNI FYLGT EFTIR

Í fjárlögum fyrir árið 1979 var boðuð niðurskurðarstefna innan ríkisspítalanna. Gerðar hafa verið margar tilraunir þetta árið af hálfu ríkisvaldsins til að skerða kaup starfsfólks, fækka starfsfólki á spítulunum og draga úr yfirvinnu. Í reynd þýðir þessi stefna árás á kjör starfsfólks ríkisspítalanna, aukið vinnuálag og niðurskurð á þjónustu við sjúklinga.

Í frumvarpi til fjárlaga fyrir árið 198o er þessari sömu stefnu fylgt eftir. Í athugasemdum við frumvarpið segir: "Í samræmi við markaða stefnu í fjárlögum 1979 hefur stjórn ríkisspítalanna beitt sér fyrir ýmsum sparnaðaraðgerðum, svo sem lækkun yfirvinnu lækna o.fl. Athuganir á miðju ári 1979 benda engu að síður til þess að ekki hafi tekist að halda starfsemi stofnana innan þeirra marka, sem sett voru með fjárlögum. Sýnist því full þörf á að tilhögun á ráðningu starfsfólks til ríkisspítalanna verði tekin til endurskoðunar".

Hér kemur fram greinileg viðurkenning á því að á árinu 1979 hafi árásin á kjör starfsfólks mistekist og verði því að beita meiri hörku á næsta ári. Í frumvarpinu kemur fram yfirlit yfir heimilaðar stöður samkvæmt fjárlögum 1979 og samkvæmt frumvarpi til fjárlaga fyrir árið 198o.

| | Fjárlög 1979 | Frumvarp |
|---|---|---|
| Skrifst.ríkisp. | 38.5 | 38.5 |
| Rannsókn.st.hásk. | 54.7 | 54.7 |
| Blóðbankinn | 18.7 | 18.7 |
| Landspítalinn | 765.o | 815.5 |
| Kvennad.Laldsp. | 11o.5 | 11o.5 |
| Kleppsspítali | 295.7 | 295.7 |
| Vífilstaðaspítali | 115.9 | 115.9 |
| Kristneshæli | 4o.9 | 4o.9 |
| Kópavogshæli | 17o.2 | 17o.2 |
| Visth.Gunnarsholti | 1o.o | 1o.o |
| Samtals: | 162o.1 | 167o.6 |

NIÐURSKURÐUR Á KLEPPSPÍTALA

Samkvæmt yfirliti yfir leyfilegar stöður, fjölgar stöðum á Landspítala um 5o.5, en engin fjölgun verður á öðrum stofnunum. Fjölgunin á Landspítala er útskýrð þennig í frumvarpinu: " Frumvarp 198o miðast við að stöðum á Landspítala fjölgi um 5o.5, þar af eru 4.5 stöður vegna geisladeildar, 6.o stöður vegna Hátúnsdeildar og 4o.o stöður til þess að koma af stað starfrækslu á tveim sjúkradeildum og tveim göngudeildum geðdeildarinnar. Fjárveiting til 4o.o staða miðast við að sömu starfsemi verði komið á fót , en mannafli sem þarf til viðbótar verði fenginn með skipulagsbreytingu á starfsemi Kleppsspítala og þeim stofnunum og deildum sem þeim tilheyra". Samkvæmt þessu er ætlunin að hagræða þannig til á Kleppsspítala að 42 stöður losni, og sem verði notaðar við geðdeild Landspítalans.